**Kaupmannahöfn,** þann 2 April 1826.

Undirskrifaðr hefr í hyggju, að fá sèr *safn af öllum þeim bókum, sem á Íslandi að fornu og nýu prentað-ar eru*, hverju nafni sem heita; èg bið því hèrmeð hvörn þann, er afsala vildi þesshàttar bækur, eptir efnum að frama þetta fyrirtæki mitt, á þann hátt, að èg fengi í umskiptum íslenzkar bækur, við danskri útleggíngu af ýmsum sögum, er èg hefir útgefið, og í því skini til-greini èg þessar fylgjandi:

*Völsúnga-Sögu*

*eðr Söguna af Sigurði Fáfnisbana.*

Kpmhöfn, 1822. (1 Rbd. 1 Mk. í seðlum). Saga þessi inniheldr (sem kunnigt er) í óbundnum stíl, það sama og sú fornaldartrú og frásögnum blandna kviða um Sigurð Fáfnisbana og hans fræga ættbálk í Sæmundar Eddu;

*Sögu af Þiðreki af Berni*

*og köppum hans.*

Kaupmannahöfn 1823. (4 Rbd. 1 Mk.)

*Fundinn Noreg,*

*Sögu af Hálfi konúngi og köppum hans;*

*Sögu af Friðþiófi enum frækna,*

o. s. fr. Kaupmannahöfn 1824. (1 Rbd.)

*Jómsvíkinga-Sögu,*

Kaupmannahöfn 1824. (3 Mk.)

*Ólafs Sögu Tryggvasonar,*

1stu deild, Kaupmannahöfn 1826. (2 Rbd.)

Hèraðauki:

*Krákumál,*

er sumir kalla Loðbrókar kviðu, eptir

skinnsbók, útgefin á íslenzku með danskri, látínskri og franskri útleggíngu, orðamunum úr öðrum handritum og tilheyrandi athugasemdum; fylgir þeim einnin nákvæmliga gjört kopargrafið málverk, er inniheldr eina blaðsíðu af þeirri gömlu kálfskinnsbók, eptir hvörri Völsúnga Saga er útlögð. þessa skjaldgæfu kálfskinnsbók sendi Brynjúlfr biskup Sveinsson framm, að gjöf til Friðreks konúngs 3ðja, en hún hvarf skjótt; er hún nú fundin, fyrir nokkrum vetrum, í afkyma einum á Konstakammerinu. Kaupmannahöfn 1826 á góðum velskum pappír, fagurliga umvönduð, í stóru 8a blaðaformi (3 Rbdlr.)

Af Völsúnga-Sögu og Krákumálum hefi èg ákvarðað flest stykki hèrtil. Eg hefi hjásett bókhlöðu verðlag við bækurnar, og bið þá, er taka vilja tilboði mínu, að skíra frá, hve mikið bók hvör, er þeir senda, kosta egi, og hvörjar af þeim fyrrgreindu þeir æski til endrgjalds fyrir sínar bækur. Einkar kærkomnar væru mèr þær bækur, sem eru á íslenzku útgefnar fyrir árit 1600 einsvel þær fáu, sem prentaðar eru í útlöndum og þær á Íslandi útgefnu fyrir það tímabil; og væri nokkrum það þægara, munda èg lúka andvirði slíkra bóka í peníngum, ef þess yrði óskað. Eg tek hverju rèttsýnu tilboði með þökkum, og óska, að bækurnar yrðu sendar með haustskipum, og mun èg þá með vorskipunum senda þær af mínum aptr ámóti umbeðnu.

Brèf eða bókasendíngar óskast með útanáskrift: „Til C. C. Rafn i København, gammel Amagertorv Nr. 7, anden Sal."

**Karl Kristjan Rafn,**

*Dr. phil. og Lautenant.*